




VERKALÝÐS BLAÐIÐ
ARÐRÆNDIR OG KÚGAÐIR ALLRA LANDA SAMEINIST!

# Sumarbúðir Verkalýðsblaðsins

Um verslunarmannahelgina stendur Verkalýðsblaðið fyrir sumarbúðum á tveim stöðum á landinu. Efni þessa fylgirits blaðsins er helgað sumarbúðunum. Hér er að finna allflestar þær upplýsingar sem við þurfum á að halda fyrir sumarbúðirnar. Þess vegna er rétt að við geymum þennan ritling vel og tökum hann með okkur á sumarbúðirnar.

Í ritlingnum eru ýmsar greinar. Fyrst ber að geta tveggja greina sem fjalla um umræðuefni sumarbúðanna. Þá eru greinar um sumarbúðir almennt og um dagskrá og skipulag þessara búða. Enn fremur eru í ritinu minnislisti fyrir þátttakendur - listi yfir allt sem taka þarf með sér. Loks er listi yfir lesefni um umræðuefnin.

Félagar! Tökum þátt í sumarbúðum Verkalýðsblaðsins! Gerum sumarbúðirnar að sterku vopni í baráttunni!



# Hvað gerist á sumarbúðunum?

Að þessu sinni skipuleggur Verkalýðsblaðið í samvinnu við EIK(m-l) tvennar sumarbúðir kommúnista og annarra baráttusinna. Búðirnar verða haldnar dagana 5., 6. og 7. ágúst (um verslunarmannahelgina) og eru aðrar í nágrenni Reykjavíkur, en hinar skammt frá Akureyri. Hver er tilgangurinn með slíkum sumarbúðum, hvað verður haft þar fyrir stafni o.s.frv.? Hér skal leitast við að svara þessum og fleiri spurningum um búðirnar.

DAGSKRÁREFNI

Sumarbúðir Verkalýðsblaðsins og EIK(m-l) eru blanda af útiveru, stjórnmálaumræðu og menningariðkan. Komið er snemma til búðanna við Reykjavík að morgni laugardags og dagurinn nýttur til að koma sér fyrir á staðnum, en síðan mun gestum leiðbeint um sitthvað varðandi útilegur og ferðalög, t.d. notkun áttavita og landakorta, ferðabúnað o.fl. Þá verður farið í gönguferð sem áætlað er að taki 2 klukkustundir. Haldinn verður fyrirlestur um náttúrufræði svæðisins.

Að kvöldi laugardags er kvöldvaka með leikþáttum, söngvum, frásögn frá Kína o.fl.

Á sunnudagsmorguninn verður risið árla úr rekkju og árdegið nýtt til leikja og útiveru. Farið verður í skoðunarferð um svæðið, en skömmu eftir hádegið hefjast umræður um annað meginefni sumarbúðanna, stríðshættuna og þá sérstaklega kenningu marx-lenínista um hina þrjá heima. Um kvöldið er kvöldvaka.

Á mánudag eru á dagskrá leikir og útivera, en auk þess síðara umræðuefni sumarbúðanna, uppbygging kommúnistaflokksins með fjöldastarfi, sérstaklega í verkalýðsfélögunum.

Í lokin verður lagt mat á starfið í sumarbúðunum og tekið til á staðnum. Heimferð er áætluð kl. 17.00.

Það skal tekið fram, að framangreint á við sumarbúðirnar í nágrenni Reykjavíkur, en dagskrá búðanna nyrðra er mjög svipuð.

Framhald á bls. 3

# Umræðuefni

1. Stofnun kommúnistaflokks - fjöldastarf.
2. Alþjóðaástandið, stríðshættan og kenningin um hina þrjá heima.

# Sumarbúðir:

# Stórfenglegt vopn í baráttunni

Verkalýðsblaðið, málgagn EIK(m-l) hefur boðað til sumarbúða um næstkomandi verslunarmannahelgi, þ.e. dagana 5-7.ágúst. Í tilefni þess er rétt að athuga nánar hvað sumarbúðir eru, almennt séð, og hvert gildi þær hafa fyrir þá sem í þeim taka þátt.

Sumarbúðir eru pólitískt starf. Þar gefst kostur á að leggja málin vel niður fyrir sér, kafa djúpt í allt sem manni er óljóst, ræða hlutina fram og aftur. Spurningar sem brenna á vörum okkar, þurfa ekki að brenna þar lengur - við getum komið þeim að og reynt að leita svara. Á sumarbúðunum þarf einstaklingurinn ekki að brjóta heilann einn í leit að niðurstöðu, því þar byggist allt á því að leysa málin sameiginlega.

Sumarbúðir eru því ákaflega þroskandi fyrir alla þá sem taka þátt. Reynslan af slíkum sumarbúðum meðal félaga okkar erlendis hefur t.d. sýnt að þær eru mikilvægur liður í starfinu og baráttunni. Oft eru þar leyst mikilsverð pólitísk verkefni, s.s. uppræting rangra starfsaðferða og rangra skoðana, mótun baráttustefnu í ákveðnum málum og þar fram eftir götunum.

Sumarbúðirnar eru ekki aðeins fyrir félaga og nánustu stuðningsmenn EIK(m-l). Síður en svo. Á sumarbúðir eiga engu síður erindi allir þeir úr röðum verkafólks og allrar alþýðu sem hafa tekið þátt í einhverri baráttu, hafa staðið álengdar en hrifist með og langar til að komast betur inn í málin, eða eru beinlínis forvitnir um starf og stefnu kommúnista og annarra baráttusinna.

Þau efni sem tekin verða til umræðu á sumarbúðunum eru tvö. Þau eru tvö mikilvægustu verkefni kommúnista og allra baráttusinna nú. Annars vegar ræðum við um þörfina á að byggja upp forystuafl í stéttabaráttunni, íslenskan kommúnistaflokk, sem byggir á marx-og lenínískum grundvelli. Þetta efni hlýtur öllum þeim að vera hugleikið, sem þátt hafa tekið í stéttabaráttunni í hinum ýmsu myndum hennar, á vinnustöðum og í verkalýðsfélögunum. Þeir sem tóku verkalýðssinnaða afstöðu þann 1.maí s.l. og tóku þátt í aðgerðum Samfylkingar 1.maí ættu alls ekki að láta sig vanta í sumarbúðirnar. Verkalýðssinnar sem ætla sér að skila auðu í komandi Alþingiskosningum vegna svika þingræðisflokkanna við hagsmuni alþýðu þurfa einnig nauðsynlega að kynnast uppbyggingu raunverulegs verkalýðsflokks. Sama gildir um alla þá sem tóku þátt í starfi og aðgerðum 8.marshreyfingarinnar. Þeir eiga brýnt erindi á sumarbúðir Verkalýðsblaðsins, því að barátta okkar í vetur sýndi m.a. að nú er mikil þörf á að eignast það afl sem getur leitt baráttu kvenna fram til sigra. Það afl er kommúnistaflokkurinn. Loks er ótvírætt að baráttusinnuðum námsmönnum sem nú stefna að stofnun baráttusinnaðrar samfylkingar námsmanna væri mikill fengur í að taka þátt í umræðunum um kommúnistaflokkinn og uppbyggingu hans.

Hitt efnið sem til umræðu verður á sumarbúðunum varðar hina alþjóðlegu baráttu, þriðja heiminn og frelsisbaráttu hans, risaveldin tvö, alþjóðahyggju verkalýðs og baráttuna fyrir sósíalisma í heiminum. Maó Tse-tung setti fyrir mörgum árum fram kenningu sína um 3.heiminn. Æ síðan hefur hún verið leiðarljós framsækinnar alþýðu um allan heim. Andheimsvaldasinnar allir verða að nema þessa kenningu og starfa samkvæmt henni, einnig hér á Íslandi, einnig í baráttunni fyrir verndun íslensks sjálfræðis. Fjöldi fólks tók þátt í starfi 21.ágústnefndarinnar og Baráttunefndar 1.des. á s.l. ári. Þeirri baráttu er síður en svo lokið. Þess vegna ættu allir, sem áhuga hafa á að halda þessu ágæta starfi áfram að taka þátt í sumarbúðunum.

Um verslunarmannahelgina er venjulega boðið upp á ýmsa skemmtan út um allt land. Þessar skemmtanir einkennast fyrst og fremst af óhóflegri áfengisneyslu, rangli og innantómum skemmtiatriðum. Sumarbúðir Verkalýðsblaðsins verða andstæða slíkra skemmtana. Góðar og uppbyggilegar umræður, útivera, náttúruskoðun og mikið magn góðs skemmti- og menningarefnis verður á dagskrá. Og allir þátttakendur ættu að leggja fram einhvern skerf. Sumarbúðir eru ekki aðeins fyrir einstaklinga og barnlaust fólk. Séð verður um það að börnin hafi nóg að gera.

Lesendur, baráttusinnar - látum okkur ekki vanta á sumarbúðirnar. Tökum lifandi þátt í uppbyggingarstarfi baráttustefnunnar. Njótum samverunnar við aðra baráttusinna, útiverunnar og þeirrar sönnu skemmtunar sem boðið verður upp á - af okkur sjálfum.

TÖKUM ÞÁTT Í SUMARBÚÐUM VERKALÝÐSBLAÐSINS - ÞAÐ BORGAR SIG!

# MINNISLISTI ÞÁTTTAKENDA

Hér á eftir fer listi yfir helstu nauðsynjar sem þátttakendur sumarbúða Verkalýðsblaðsins verða að hafa meðferðis. Listinn er ekki tæmandi.

1. Svefnpoki/ sængurföt/ undirlag fyrir tjaldbúa. Skálabúar hafi að sjálfsögðu með sér sama.
2. Tjöld - þeirra sem hyggja á tjaldvist.
3. Krús/ diskur/ hnífapör fyrir hvern einstakling.
4. Skjólgóð föt - m.a. regnföt og skó til göngu,auk léttra skóa og stígvéla.
5. Ritföng/ pappír.
6. Hljóðfæri og hvers kyns menningarefni.
7. Hreinlætisvörur, nál/ tvinna o.þ.h.
8. Áttavita, kort af SV-landi og landi austan Akureyrar og bakpoka ( þeir sem að eiga).
9. Fáein leikföng handa börnum.
10. Bækur, hljómplötur ofl til þess að gefa til þess þáttar sumarbúðanna sem aflar fjár umfram gjaldið t.d. til ákveðinnar fjársöfnunar VBL eða EIK (m-l)
11. Sundföt eða annan álíka léttan klæðnað.

Gott er að hafa í huga að yfirlestur þess lesefnis sem vísað er til, er ágætur undirbúningur undir sjálfar sumarbúðirnar.

Síðast en ekki síst hvetur VBL og EIK(m-l) sem flesta til að fá aðra með sér. Leita verður vítt út til fjöldans í þessu skyni.



# Hvað gerist á sumarbúðunum?

- framhald af forsíðu

LESEFNI - UMRÆÐAN - KVÖLDVÖKUR

Í þessu fylgiriti Verkalýðsblaðsins eru tvær greinar um meginefni búðanna. Þær gera grein fyrir efninu og mikilvægi þess í hinni nýju verkalýðssinnuðu baráttuhreyfingu. Ennfremur er hér í ritinu að finna umræðupunkta fyrir þátttakendur búðanna og tilvísanir í lesefni á íslensku, sem menn geta kynnt sér á eigin spýtur. Lesefnið er fáanlegt í Október-búðinni, Óðinsgötu 30 í Reykjavík. Pantanir má senda í pósthólf 5186 eða í gegn um síma, númerið er 29212.

Hvernig er stjórnmálaumræðunni hagað á sumarbúðunum? Hún fer þannig fram, að megintíminn er notaður í hópaumræður (3-5 þátttakendur í hóp), en áður er flutt u.þ.b. 30 mín. framsöguerindi. Umræðuhópurinn kýs sér stjórnanda og fylgir umræðupunktunum, þó svo að eigin hugmyndir þátttakenda fái að njóta sín. Með þessu umræðuformi er best tryggð aukin stjórnmálaþekking og virkni allra þátttakenda. Að auki verða hengd upp veggblöð til umræðu og gagnrýni. Þau eru öllum opin.

Talsvert af kvöldvökuefninu verður skipulagt fyrirfram. Verulegt rúm verður þó fyrir efni sem búið er til á staðnum. Til slíkra hluta er úthlutað tíma á dagskránni. Geta þátttakendur myndað með sér samvinnu um samningu ljóða, laga, leikþátta o.s.frv. Reynt verður að tengja efnið stjórnmálaumræðum búðanna.

AÐSTAÐAN

Staðsetning sumarbúðanna er ekki í alfaraleið. Aðstaða öll er engu að síður þokkaleg. Húsrúm er fyrir barnafólk og aðra sem ekki geta legið í tjöldum. Það fer eftir veðri hve mikið af starfseminni fer fram utan dyra. Vatn og önnur hreinlætisþing eru til staðar. Alllangt er í verslun, þannig að sérþarfir fólks krefjast fyrirhyggju (tóbak, öl o.fl.). Einföld sjúkraáhöld verða til staðar.

BARNAGÆSLAN

Þátttakendur ættu að taka börn sín með sér á sumarbúðirnar, svo framarlega sem þau eru ekki yngri en $1\frac{1}{2}$ - 2ja ára. Skipulögð barnagæsla er á staðnum og er sérstök dagskrá fyrir börnin með föndri, leikjum, sögum o.s.frv. Að auki fá börnin að fara í eigin gönguferðir. Vegna þessa fyrirkomulags ætti barnafólk að geta tekið þátt í störfum búðanna til jafns við aðra.

MATFÖNG

Hverjum þátttakanda eru reiknaðar máltíðir, auk morgun- og kvöldkaffis. Þátttökugjald, sem ekki hefur enn verið ákveðið, nær yfir fullt fæði. Verður þátttakendum skipt í hópa sem annast eldamennsku og frágang u.þ.b. einu sinni yfir sumarbúðatímann.

Þátttakendur verða sjálfir að koma með sérstakan barnamat, aukabita, gosdrykki og fleira þvíumlíkt. Það skal tekið fram að hvers konar meðferð áfengra drykkja er stranglega bönnuð. Annars staðar í blaðinu er birtur minnislisti yfir helstu nauðsynjar sem þátttakendur þurfa að hafa með sér.

HVERNIG Á AÐ TILKYNNA ÞÁTTTÖKU OG FÁ UPPLÝSINGAR?

Þeir sem áhuga hafa á þátttöku eða frekari upplýsingum geta rætt við sölumenn Verkalýðsblaðsins, litið við í Október-búðinni í Reykjavík, skrifað í pósthólf 5186 í Reykjavík og 541 á Akureyri eða haft samband við Þórarinn Hjartarson, Spítalavegi 17, Akureyri.

Skráningarfrestur er til 20. júlí. Þátttakendur taki fram við skráningu hvort þeir óski eftir að fara í búðirnar á Norðurlandi eða Suðurlandi.

# Alþjóðaástandið...

Framhald af bls. 7

baráttu út á við, bæði vegna þrýstings frá alþýðunni og vegna þess að hætta er á að missa algerlega hagsmuni sína í hendur annarra. Dæmi um þetta er landhelgismálið.

Eitt af því fyrsta sem heimsvaldasinnar gera, þegar þeir reyna að ná yfirráðum á nýjum svæðum, er að tryggja sér innlenda bandamenn. Þeir finnast innan borgarastéttarinnar og meðal handbenda hennar. Því er borgarastéttinni ekki treystandi fyrir verndun sjálfræðisins. Það eru alltaf hópar innan hennar sem vilja selja sjálfræðið. Þetta er ástæðan fyrir því að við höfum marga talsmenn erlendra auðhringa hér, menn sem hafa beinna hagsmuna að gæta af nærveru þeirra. Talað er af miklum fagurgala um góðvild og ágæti bandaríska hersins, hve nauðsynlegt sé að semja við Vestur-Þjóðverja og Breta í landhelgismálinu, hve frændur okkar Norðmenn reki miklu betri auðhringa en aðrir, og hve hagstætt sé að tengjast Sovétríkjunum og dýrðinni þar. Þessi öfl hafa skipt sér bróðurlega á milli flokka borgarastéttarinnar. Bandaríkin eiga sér vini í Sjálfstæðisflokknum og Alþýðuflokknum, einokunarauðvaldið og embættismannakerfið. Framsóknarflokkurinn og SÍS-auðvaldið tvístíga á milli Bandaríkjanna og Sovétríkjanna, en ungt og minna - en vaxandi - auðvald innan Alþýðubandalags hjúfrar sig að Sovétríkjunum. Til að halda þeirri stöðu og þeim sigrum sem íslensk alþýða hefur unnið verður framsækið fólk að afhjúpa þá sem hafa hag af því að selja landið í hendur erlenda auðseggja til að fá hlutdeild í gróða þeirra. Íslenska auðvaldsþjóðfélagið er sama marki brennt og önnur auðvaldsríki á stigi einokunar. Það þarf að þenjast út og finna nýja markaði, stunda heimsvaldastefnu - slíkt er eðli þess. Þann farveg finnur íslensk borgarastétt sér þar sem garðurinn er lægstur, þar sem minnst er um varnir í þriðja heiminum. Dæmi um þetta eru hreint ekki svo fá. Tökum t.d. saltfisksöluna til Nígeríu og húsabyggingar Scanhouse þar. Þarna hagar íslensk auðstétt sér nákvæmlega eins og heimsvaldaseggir hafa alltaf gert, - þótt hún vegna smæðar sinnar sé ekki eins öflug og aðrar .

---

# Umræðuatriði:

Á sumarbúðunum í ár verða eftirtalin atriði rædd

ALÞJÓÐAÁSTANDIÐ :

1. Hvaða grundvallarbreyting varð á ástandinu í hei inum, þegar gagnbylting var gerð í Sovétríkjunum heimsvaldastefna þeirra fór að eflast ?
2. Hverjar eru meginástæður þeirrar stríðshættu sem nú er í heiminum ?
3. Hvernig markar kenningin um þrjá heima íslenskum kommúnistum og öðrum baráttusinnum verkefni - annars vegar nú, og hins vegar ef heimsstyrjöld brýst út ?

SMÍÐI KOMMÚNISTAFLOKKS OG FJÖLDASTARFIÐ :

1. Hvaða vandamálum mæta kommúnistar og aðrir barát sinnar á vinnustöðum, og hvernig ber að snúast v þeim ?
2. Hvernig ber að haga áróðri og starfi við að smíð andstöðulið gegn stéttasamvinnu innan stéttarfélaganna ? Hvers vegna er þátttaka í almennri kjarabaráttu nauðsynleg ?
3. Hvernig geta kommúnistar og aðrir baráttusinnar eflt andheimsvaldabaráttu, kvennabaráttu og námsmannabaráttu á komandi ári ? Ber að stofna nýj hreyfingu andheimsvaldasinna ? Eru skilyrði ti stofnunar framsækinnar kvennabaráttuhreyfingar

# Stofnun kommúnistaflokks -fjöldastarf

Á 3. landsþingi EIK(m-l) 1978 settu samtökin sér það markmið að uppfylla skilyrði sem nægðu til að stofna raunverulegan verkalýðsflokk - kommúnistaflokk - fyrir 1980.

Nauðsyn slíks flokks verður æ meiri. Almenn kreppa auðvaldsins dýpkar og mun líklega enda með nýju stríði milli risaveldanna, Bandaríkjanna og Sovétríkjanna. Í slíku stríði þarfnast verkalýðsstéttin og önnur alþýða forystuafls - kommúnistaflokks.

Kreppan leiðir af sér aukið arðrán og kúgun á verkafólki. Í baráttunni fyrir bættum kjörum verður því einnig að vera til flokkur sem engra annarra hagsmuna hefur að gæta en verkalýðs og vinnandi alþýðu.

Baráttan fyrir byltingu auðvaldsskipulagsins er leidd af verkalýðsstéttinni með flokk sinn í broddi fylkingar - kommúnistaflokkinn.

Hlutverk kommúnistaflokks er að fræða og búa stéttina undir byltingu og uppbyggingu alræðisvalds verkalýðs og vinnandi alþýðu.

## HVAÐ ÞARF TIL FLOKKSSTOFNUNAR ?

Kommúnistaflokkur er æðsta form stéttarsamtaka verkalýðs og þróar með sér þjóðfélagsgreiningu og stefnu sem er sífellt í mótun. Almenn skilyrði fyrir stofnun kommúnistaflokks eru þessi :

1. Tilvist verkalýðsstéttar í landinu.
2. Tilvist marx-lenínismans í stjórnmálastarfi.
3. Tilvist kommúnískrar hreyfingar í landinu.

Auk þessa settu EIK(m-l) sérskilyrði gagnvart öðrum samtökum sem kölluðu sig kommúnísk. Þau voru :

1. Eining samtaka um grundvallaratriði marx-lenínismans.
2. Eining samtaka um samfylkingaraðferðina og höfuðatriði baráttustefnunnar.
3. Eining um grundvallaratriði skipulags kommúnistaflokks.
4. Gagnrýni allra aðila á fyrri störf með heildarmati á fortíð sinni og réttum niðurstöðum, þ.á.m. að KSML hafi aldrei verið marx-lenínísk samtök.

Eftir að KSML breyttu nafni sínu í "KFÍ/ml" settu EIK(m-l) sér þau verkefni að :

1. Sameina alla kommúnista, innan sem utan EIK(m-l), þ.á.m. í "KFÍ/ml", í ein samtök.
2. Semja baráttuhæfa stefnuskrá
3. Styrkja lýðræðislegt miðstjórnarvald innan sinna raða.
4. Skapa tengsl við framsæknasta og stéttvísasta hluta verkalýðsstéttarinnar.

Þegar þessi skilyrði eru uppfyllt er kominn tími til flokksstofnunar.

Um þessi skilyrði er það að segja, að sameiningu kommúnista er að mestu lokið. "KFÍ/ml" hefur klofnað fjórum sinnum á s.l. einu og hálfu ári og meirihlutinn gengið í EIK(m-l). Baráttuhæf stefnuskrá er til í formi Baráttuleiðar alþýðunnar, stefnuskrár EIK(m-l). Lýðræðislegt miðstjórnarvald er til staðar með stofnun EIK(m-l). Aðeins 4. atriðið er óuppfyllt að mati EIK(m-l). Tengsl við stéttvísasta hluta verkalýðsins verður að efla að mun með starfi meðal verkafólks. Það er nú höfuðverkefnið.

Hér á eftir verða talin upp helstu atriði sem EIK (m-l) leggja áherslu á í þessu starfi :

## VINNUSTAÐASTARF - STÉTTARFÉLAGASTARF

Tengsl EIK(m-l) við verkalýð verða fyrst og fremst til með því að kommúnistar vinni meðal fjöldans. Í fyrstu áhersluröð er áróðurs- og upplýsingastarf. Í öðru sæti baráttuskipulagning. Á þeim vinnustöðum sem félagar EIK(m-l) starfa ásamt öðru baráttusinnuðu verkafólki er aðalverkefni þeirra að mynda samfylkingu til baráttu fyrir helstu hagsmunamálum hvers vinnustaðar, t.d. vinnuaðstöðu, gegn ólöglegum uppsögnum auk kjaramála. Auk þess að stunda kjaramálastarf mega baráttusinnar ekki gleyma áróðri og baráttu fyrir langtímamarkmiðum, s.s. stofnun kommúnistaflokks og baráttunni fyir sósíalískri valdbyltingu. Tengja



Án skipulags Leníns, án lýðræðislegs miðstjórnarvalds, járnharðs aga og öflugs lýðræðis inn á við, getur íslenskur kommúnistaflokkur aldrei orðið brimbrjótur íslensks verkalýðs í baráttu hans við auðhyggju og afturhald.

verður kjarabaráttuna og flokksbygginguna saman. Nú miðast allt verkalýðsmálastarf kommúnista við að byggja andstöðulið í stéttarfélögunum gegn stéttasamvinnuforystunni. Í því felst stöðug afhjúpun á og baráttu gegn þessari borgaralegu forystu.

Baráttusinni á vinnustað verður að byrja á því að greina vini og óvini til þess að geta höfðað til þeirra sem standa honum næst, m.a. með Verkalýðsblaðinu.

Á stéttarfélagsfundum verður baráttusinni, eins og á sínum vinnustað, að taka upp kröfur sem taka mið af baráttustöðu verkafólks og getu þess til að berjast fyrir þeim. Á fundum stéttarfélaganna fer fram barátta gegn stéttasamvinnuforystunni, og þar hefst einnig uppbygging kjarna andstöðuliða sem fara verður með út á vinnustaði.

EIK(m-l) telja að menntamönnum í samtökunum sé hollt og nauðsynlegt að fara í vinnu meðal verkalýðs um stund, bæði til að auka starf EIK(m-l) og einnig vegna lítið verkalýðssinnaðs umhverfis þessara manna.

## ANDHEIMSVALDASTARF

Helsti baráttugrundvöllur andheimsvaldastarfs á Íslandi er enn sem komið er Samtök herstöðvaandstæðinga, auk tímabundinna samfylkinga s.s. 1.des., 8. mars, 1. maí og 21. ágúst.

Innan Samtaka herstöðvaandstæðinga hefur ríkt nokkur barátta á milli baráttusinna undir leiðsögn EIK(m-l) annars vegar - og endurskoðunarsinna með forystu Alþýðubandalags og Fylkingar og stuðningi "KFÍ/ml" hins vegar, um afstöðuna til risaveldanna tveggja. Fjöldagrundvöllur fyrir baráttu gegn báðum risaveldunum er augljós og skilyrði fyrir réttu starfi Samtaka herstöðvaandstæðinga.

Baráttan fyrir verndun sjálfsákvörðunarréttar íslensku þjóðarinnar vex einnig. Ítroðsla heimsvaldaríkja eykst stöðugt, t.d. í formi erlendrar stóriðju, erlendrar rányrkju fiskimiða, setu NATÓ-hers hér, auk sívaxandi yfirgangs hins risaveldisins, Sovétríkjanna.

Öflug þjóðfrelsisbarátta 3.heims-ríkja krefst aukins stuðnings á alþjóðavettvangi og krefst þess að íslensk alþýða taki virkan þátt í þeim stuðningi.

Stríðshættan fer vaxandi. Bandaríkin og Sovétríkin vígbúast af kappi. Risaveldin auka kúgun sína á 3. heiminum, sem og heima fyrir. Kommúnistar benda á að Sovétríkin séu hættulegri en Bandaríkin þar sem þau eru í greinilegum vexti, en aftur á móti eru Bandaríkin hnignandi heimsveldi. Auk þess eru Sovétríkin Bandaríkjunum hernaðarlega fremri, en aftur á móti eru Bandaríkin sterkari efnahagslega. Þetta þýðir ekki að baráttan gegn Bandaríkjunum verði látin sitja á hakanum. Verkefnið er því að smíða margþætta samfylkingu gegn allri heimsvaldastefnu. Hinn nýi kommúnistaflokkur mun hér halda áfram því starfi sem EIK(M-L) hafa hafið.

## KVENNABARÁTTA

Kvennabarátta er óaðskiljanlegur hluti af efnalegri og pólitískri baráttu alþýðunnar.

Undanfarin ár hefur Rauðsokkahreyfingin ásamt MFÍK verið einna mest áberandi í að reyna að skipuleggja kvennabaráttuna, en mistekist í veigamiklum atriðum. Helstu villur Rausokka eru :

1. Að bindast öðrum samtökum og treysta mjög á stéttasamvinnuforystu verkalýðsfélaganna.
2. Femínismi er ríkjandi í Rauðsokkahreyfingunni, en femínismi er borgaraleg stefna , sem byggir á borgaralegri afstöðu til karla og "jafnréttisóþreyju".
3. Rauðsokkahreyfingin binst pólitískum flokkum, sbr. það að Sönghópur hreyfingarinnar syngur á kosningafundum Alþýðubandalags o.fl., og sbr. einnig það að 1.maí tók Rauðsokkahreyfingin þátt í samkrulli Fylkingarinnar og "KFÍ/ml".
4. Rauðsokkahreyfingin berst ekki gegn heimsvaldastefnu eða risaveldum.
5. Skipulag Rauðsokka er rangt . Hópar innan hreyfingarinnar eru aðeins laustengdir innbyrðis. Auk þess eru engin aðalverkefni sem allir hópar verða að leysa af hendi.
6. Rauðsokkar eiga enga stefnuskrá sem er sameign allra félaga, heldur hefur hreyfingin aðeins myndað sér skoðun í nokkrum "helstu málum".

Menningar- og friðarsamtök íslenskra kvenna (MFÍK) eru borgaraleg samtök sem styðja opinberlega heimsvaldastefnu og fasisma Sovétríkjanna, m.a. studdu þau og fögnuðu innrás Sovétríkjanna í Tékkóslóvakíu árið 1968. Þau eru engin valkostur í kvennabaráttu.

Af framantöldu er ljóst að nauðsyn er að smíða nýja kvennahreyfingu, byggða á baráttugrundvelli, með því að nýta árangur 8.mars-hreyfingarinnar og vinna alla baráttusinna úr Rauðsokkahreyfingunni, Alþýðubandalaginu og fleiri samtökum til fylgis við verkalýðsstefnu og baráttuskipulag.

Til að veita slíkri kvennabaráttuhreyfingu forystu þarf að byggja upp kommúnistaflokk sem hefur skýra og afdráttarlausa stefnu í kvennabaráttumálum.

**NÁMSMANNABARÁTTAN**

Nokkur undanfarin ár hefur svokallaður "vinstri" meirihluti verið við völd í Stúdentaráði Háskóla Íslands. Meirihluti þessi er samsettur af allra handa endurskoðunarsinnum, s.s. aðalsprautum Alþýðubandalags, Fylkingarinnar, með hjálp og stuðningi "KFÍ/ml", Alþýðuflokks og Framsóknar. EIK(m-l) í HÍ hafa starfað að nokkru með þessum meirihluta þar til í vetur, að félagar EIK(m-l) og aðrir baráttusinnar sögðu af sér trúnaðarstörfum og hættu stuðningi við forystu "vinstri" manna. Síðan þá hafa þessi öfl haft í frammi áróðursherferð gegn EIK(m-l). Ástæðan er sú að meirihlutinn hefur ranga afstöðu til ríkisvaldsins og til kjarabaráttunnar og leyfir pólitískum samtökum á borð við Fylkinguna og Alþýðubandalagið að notfæra sér hreyfingu námsmanna.

Eftir því sem baráttan í hagsmunamálum stúdenta harðnar, verður barátta gegn óþurftarstefnum meðal námsmanna - s.s. trotskíisma, kratisma o.fl. - æ mikilvægari. Þörfin á baráttusinnaðri samfylkingu námsmanna vex að sama skapi.

Um SÍNE gegnir nokkuð öðru máli. Vegna enn verri aðstöðu námsmanna erlendis, s.s. vöntun á dagheimilum, fjárhagserfiðleikum o.fl. hefur baráttustefnu vaxið ásmegin innan SÍNE. Hafa baráttusinnar verið í stjórn SÍNE í nokkur ár þar til í vetur. Innan SÍNE stendur baráttustefna föstum fótum og mun SÍNE verða ágætur grundvöllur fyrir starf baráttusinna.



Án fjöldastefnu Maós getur íslenskur kommúnistaflokkur aldrei gegnt því hlutverki sínu að verða forystuafl verkalýðs og annarrar vinnandi alþýðu.

Meðal annarra nema, s.s. menntaskólanema og iðnnema hefur baráttustefnu vaxið fylgi að undanförnu. Sama gildir um t.d. hjúkrunarnema, fóstrunema o.fl.

Umræða um æskulýðssamtök kommúnista hafa lítið verið á dagskrá hér á landi. Þó er vert að geta misheppnaðrar stofnunar Rauðrar æsku, skilgetins afkvæmis KSML. Mikilvægi æskulýðssamtaka kommúnista verður því meira sem kreppa auðvaldsins dýpkar og atvinnuleysi fer að gæta, því að það bitnar ekki síst á verkalýðsæskunni. Hún þarf því fjöldasamtök sem getur barist gegn árásum auðvaldsins. EIK(m-l) stefna að stofnun samtaka ungra kommúnista samhliða uppbyggingu og stofnun kommúnistaflokks. Til þess er undirbúningur hafinn m.a. með uppgjörinu í HÍ og útgáfu TIL BARÁTTU, námsmannablaðs EIK(m-l).

**ÁRÓÐURSSTARFIÐ**

Til þess að geta sinnt uppbyggingu flokksins og allra þeirra samfylkinga sem getið er hér á undan þarf stærsti þáttur starfs EIK(m-l) að vera upplýsingastarf meðal fjöldans. Í því kemur fram bæði baráttuáróður í einstökum málum og fræðsla um marx-lenínismann og kenningar Maós Tsetúngs.

Meginvopn kommúnista í þessu starfi er VERKALÝÐSBLAÐIÐ. Með því er reistur vinnupallurinn við sjálfa smíði flokksins. Aukin lausasala, áskriftaröflun, stækkun blaðsins og vikuleg útgáfa eru næstu verkefni EIK(m-l) á þessu sviði.

Auk blaðsins verður að auka útgáfu tímarita - eins og RAUÐLIÐANS, fræðilegs og menningarlegs málgagns EIK(m-l) - smábæklinga og dreifirita, bæði staðbundinna og á vegum samtakanna í heild. Efling OKTÓBER-FORLAGSINS, eina kommúníska útgáfufyrirtækisins hér á landi, er einnig brýnt verkefni. Síðan kemur að sjálfsögðu munnlegur áróður innan stéttarfélaga, samfylkinga, á vinnustöðum, sem og sköpun og flutningur hvers konar baráttusinnaðs og alþýðlegs menningarefnis.

**SAMANTEKT**

Meginverkefni EIK(m-l) nú er að vinna tengsl milli hinna kommúnísku samtaka og verkalýðsstéttarinnar. Samtökin þarfnast félaga úr verkalýðsstétt og baráttutengsla við miklu stærri hóp. Þetta er aðalskilyrði flokksstofnunar nú.

Höfuðþáttur starfsins er fjöldaáróðurinn, en í næsta sæti baráttuskipulagning. Af málaflokkum eru verkalýðsmálin mikilvægust, þar næst andheimsvaldabaráttan.












# Alþjóðaástandið, stríðshættan og

Þeir sem fylgst hafa með fjölmiðlum s.l. ár reka eflaust augun í áberandi fréttir af ýmiss konar átökum, mannfalli og eignaskemmdum. Nýjasta dæmið er Zaire. Þar er barist um eitt málmauðugasta svæði heims. Mesta hagsmuni telja sig þar eiga Sovétríkin, Bandaríkin, Frakkland og Belgía. Reyna nú Sovétríkin annars vegar og Bandaríkin, Frakkland og Belgía hins vegar að tryggja hag sinn þarna með hvers konar brögðum. Blóðug bylting er nýafstaðin í Afganistan. Þeir sem komust þar til valda líta björtum augum til Sovétríkjanna. Eþíópísk herforingjastjórn, studd af Kúbumönnum og Sovétmönnum og vopnuð af þeim, hefur nú hafið mikla sókn gegn sjálfstæðissinnum í Eritreu, sem barist hafa vopnaðri baráttu fyrir sjálfstæði lands síns í 17 ár. Í Evrópu og Bandaríkjunum fer verkfalls- og andheimsvaldabarátta vaxandi. Fréttir sem þessar berast okkur daglega. Það er því varla hægt að segja að friðsamlegt sé í heiminum í dag. En lítum undir yfirborðið og athugum hvert er baksvið og meginþróun þessara stéttaátaka.

## HEIMSVALDASTEFNA ELUR AF SÉR STRÍÐ

Í þeim löndum sem borgarastéttin og iðjuþróunin áttu sér lengsta þróun og hagstæðust skilyrði, náði auðvaldið fyrst stigi einokunar og þar með stigi heimsvaldastefnunnar. Til að halda sér gangandi varð einokunarauðvaldið að þenja sig yfir fleiri og fleiri hráefnissvæði og markaði. Selja varð sífellt meira á einokunargrundvelli. Því var það að auðvaldslöndin tóku upp æðisgengið kapphlaup sín á milli um nýja markaði, hráefnalindir o.fl. Auðvaldslöndin tóku sér nýjar nýlendur og gerðu efnahagslíf þjóða háð sér. Þegar svo ekki var unnt að ganga lengra var eina ráðið að koma af stað uppskiptastyrjöld, þar sem spilin skyldu stokkuð á ný. Lönd sem mestan hag hafa haft af uppskiptastyrjöld og eru gráðugust, eru ung heimsvaldaríki sem hafa misst af lestinni af einhverjum orsökum. Slíkur var bakgrunnur bæði fyrstu og annarrar heimsstyrjaldar. Og slíkur verður bakgrunnur allra þeirra uppskiptastríða sem heimsvaldaseggir munu heyja sín á milli, allt þar til auðskipanin er ekki ríkjandi hagkerfi lengur.

## BANDARÍKIN ÖFLUGUST EFTIR STYRJÖLDINA

Auðvaldsríkið sem kom sterkast út úr síðari heimsstyrjöldinni var Bandaríkin. Flest hinna öflugri auðvaldsríkja Evrópu voru meira og minna í sárum eftir styrjöldina. Alls staðar þóttist nú þetta vaxandi heimsveldi eiga hagsmuna að gæta. Bandaríkin gerðust nokkurs konar alþjóðalögregla borgarastéttarinnar. Bandaríkin voru á þessum tíma potturinn og pannan í ýmiss konar óþverrabrölti og gagnbyltingum til að hefta framgang sósíalisma og frelsisafla. Nægir þar að nefna dæmi eins og stofnun NATÓ og annarra hernaðarbandalaga, Kóreustyrjöldina, Grikklandsblóðbaðið, hertöku Formósu og ýmsar aðgerðir til að hrekja öfl sem ekki voru Bandaríkjunum að skapi úr ríkisstjórnum hér og hvar.

Auðvaldskerfi Bandaríkjanna þarfnaðist styrjalda. Það var og er byggt þannig upp, rétt eins og hagkerfi allra stórra hervelda auðvaldsskipulagsins. Heimsstyrjöldin síðari skapaði bandarískum auðhringum kærkomið tækifæri til að losna úr viðjum offramleiðslukreppunnar miklu - með nýrri þenslu. Óhemju auður fluttist til Bandaríkjanna. Því var það að lokinni styrjöldinni að Bandaríkjunum var það ekkert kappsmál að friður héldist.

## SÓSÍALÍSKI HEIMSHLUTINN

Afturhaldsöfl heimsins studdu heimsvaldabrölt Bandaríkjanna. Sum fengu að arðsjúga og kúga alþýðu landa sinna og annarra landa undir verndarvæng bandaríska heimsvaldaseggja. En alþýða manna átti sér góðan stuðning, þar sem voru hin sósíalísku Sovétríki Stalíns og alþýðulýðveldin í Austur-Evrópu og Kína. Verkalýðsstétt og alþýða þessara ríkja gleymdi ekki nánustu bræðrum sínum sem járnhæll bandarískrar heimsvaldastefnu kramdi. Þrátt fyrir að stórir hlutar þessara landa væru í rúst eftir heimsstyrjöldina og sósíalísk uppbygging væri erfitt verkefni, þá studdu þessi ríki á alla lund frelsisöflin. Studd var barátta þjóða til að glata ekki sjálfræði sínu og efnahagslegu sjálfstæði í hendur heimsvaldastefnunnar. Veitt voru óafturkræf lán og tækniaðstoð án skilyrða, vopn og hernaðaraðstoð eins og hægt var. Barátta þessi var víða sigursæl, sérstaklega í svonefndum vanþróuðum ríkjum.



**Alþýða Eritreu berst hetjulegri baráttu gegn óvini** allra landa þriðja heimsins - risaveldunum og heimsvaldastefnu þeirra.

## NÝR KEPPINAUTUR

En hvernig skyldi ástandið vera í dag, rúmum 30 árum eftir lok síðari heimsstyrjaldar ? Eru Bandaríkin ekki þau sömu og áður ? Jú, en ósigur þeirra fyrir þjóðfrelsisöflum víða um heim hafa valdið þeim töluverðum vandræðum og álitshnekki. Alþýða Bandaríkjanna hefur líka í auknum mæli snúist gegn eigin borgarastétt. Spilling og rotnun auðvaldskerfisins hefur valdið vandræðum. Ennþá eru þó Bandaríkin auðvaldsríki með umsvif í öllum heimshornum, sannkallað risaveldi sem ber ægishjálm yfir öll önnur auðvaldsríki utan eitt : Sovétríkin.

Framferði Sovétríkjanna í dag er nákvæmlega hið sama og Bandaríkjanna í gær. Nú er svo komið að Sovétríkin telja sig eiga rétt til íhlutunar hvar sem er í heiminum í nafni gróðahagsmuna sinna, sem kallaðir eru "sósíalismi". Í staðinn fyrir efnahagsaðstoð og hernaðaraðstoð kemur aðstaða fyrir sovéskar herstöðvar, arðrán og heimild til handa Sovétríkjunum til að nota hráefni landanna. Í stað hagstæðra viðskipta kemur verslun byggð á okri og einokun

## KAPÍTALÍSK SOVÉTRÍKI ERU HEIMSVALDASINNUÐ

Hvers vegna reyna Sovétríkin að gera efnahagslíf annarra þjóða háð sér (kallað "alþjóðleg verkaskipting") ? Hvers vegna reyna þau að ná einokun á mörkuðum og hvers vegna er hernaðariðnaður þeirra 30 % þjóðarframleiðslu í dag ? Vegna þess að það hefur verið gerð gagnbylting í Sovétríkjunum. Nýir einræðisherrar í stíl gömlu keisaranna hafa tekið völdin og breytt hagkerfi Sovétríkjanna í ríkiskapítalískt hagkerfi. Sovétríki nútímans þarfnast og krefjast nýrra markaða og nýlendna. Í þeim tilgangi eru þau að brölta í

# kenningin um hina þrjá heima

Afríku í dag. Og þess vegna undirbúa þau nýtt uppskiptastríð, nýja heimsstyrjöld. Undir yfirskini sósíalisma og þjóðfrelsis svipta Sovétríkin þjóðirnar sjálfræði sínu, ræna þær hráefnum sínum, arðræna og kúga á allan hátt. Dæmin eru mýmörg : Tékkóslóvakía, Angóla, Eþíópía, Sómalía og Eritrea. Svik við þjóðfrelsisöflin í Kampútsju og Palestínu eru þekkt, sem og fjarstýrð innrás þeirra í Zaire. Þar er sömu aðferð beitt og Bandaríkin beita : leppar og málaliðar látnir heyja styrjaldirnar.

Kapítalismi Sovétríkjanna krefst þeirra ítaka sem Bandaríkin hafa. Bandaríkin reyna aftur á móti að halda í sitt. Því er það að Sovétríkin hafa helst hagsmuni af því að hefja stríð, rétt eins og Hitlers-Þýskaland fyrr á þessari öld.

AUÐVALDSRÍKI Í TVÍBENTRI STÖÐU

Auðvaldsríki sem eru á heimsvaldastigi en eru vanmáttugri en risaveldin eiga oft í baráttu hvert við annað og þau reka heimsvaldastefnu gagnvart þeim sem minna mega sín, sérstaklega"vanþróuðu ríkjunum". Með tilkomu risaveldanna er lífsrými þeirra takmarkað. Og eitt eiga þau sameiginlegt : Risaveldin ógna sjálfræði þeirra. Þau eiga það á hættu að lenda sjálf í þeirri aðstöðu sem þau búa öðrum. Tæknivæðing þeirra og framleiðsluskipulag er afkastamikið og gerir þau eftirsótt í augum risaveldanna. Hver tilraun þeirra til að ráða eigin málum í trássi við vilja risaveldanna er þyrnir í augum þeirra. Öll barátta minni auðríkjanna sem verður til að veikja stöðu risaveldanna er til góðs fyrir baráttu þeirra þjóða og stétta sem heimsvaldastefnan kúgar mest. Þrátt fyrir afturhaldseðli ríkjanna verður sjálfræðisbarátta þeirra til að veikja hættulegasta óvin framsækinna afla. Meðalstór og smá auðvaldsríki eru því í tvíbentri stöðu, og því er greinilega út í hött að hafa sömu afstöðu til þeirra og risaveldanna.

MEGINAFLIÐ ER UTAN AUÐVALDSLANDANNA

Þær þjóðir og alþýða sem mest eru kúguð af heimsvaldastefnunni og því hatrammasti andstæðingur hennar eru hinar svokölluðu vanþróuðu þjóðir, þar sem efnahagsþróun er styst á veg komin. Flest landanna hafa verið arðrænd og kúguð um langan tíma, og þarna má oft finna leifar eldri þjóðskipulaga, eins og t.d. lénsskipulagsins. Eftir 1960 hefur alþýða manna risið upp í æ ríkara mæli og hafið vopnaða baráttu gegn kúgurunum. Þar sem barátta þessi hefur verið háð á byltingarsinnuðum grunni undir forystu verkalýðsstéttar hefur alþýðunni tekist að ná þjóðfrelsi og hefja uppbygginu ríkis sósíalismans. Í þessum heimshluta finnum við hörðustu og hættulegustu andstæðinga heimsvaldastefnu í hvaða líki sem hún birtist. Margs konar lönd með ólíkt stjórnarfar eiga hér það sameiginlegt að vera mest ógnað af heimsvaldastefnunni. Hvers konar barátta þeirra til að berja á heimsvaldastefnunni hlýtur því að vera mjög svo nauðsynlegur hluti heimsbyltingar sósíalismans. Miðað við baráttuna í auðvaldslöndum er þessi barátta meginafl stéttabaráttunnar í heiminum á okkar tímum.

KENNINGIN UM HINA ÞRJÁ HEIMA

Með samanburði á ríkjum heims, baráttu þjóða og stétta sést greinilega að lönd heimsins skiptast í þrjá meginhópa :

Fyrsta heiminn – risaveldin tvö.
Annan heiminn – meðalstór og minni auðvaldslönd.
Þriðja heiminn – "vanþróuðu" löndin í Asíu, Afríku og Ameríku, auk sósíalísku landanna og alþýðulýðveldanna.

Lenín og Stalín skiptu löndum heims í mismunandi hópa á sínum tíma, en Maó þróaði fram kenninguna um hina þrjá heima á grundvelli marxískrar fræðikenningar og þess heimsástands sem við honum blasti.

Hvers vegna er hún nauðsynlegur hluti marxlenínismans og byltingarbaráttunnar ?

Vegna þess að ekki er unnt að heyja baráttu fyrir sósíalisma í einu landi – gegn eigin auðstétt – nema taka tillit til erlendra aðstæðna og heimsvaldastefnunnar. Auk þess verður alltaf að greina andstæðingana í flokka eftir getu þeirra. Þyngstu höggin eru ætluð eigin auðstétt og illvígasta sameiginlegum óvini alþýðu alls heimsins.

Kommúnistar skoða ástandið hlutlægt og ákvarða baráttu sína út frá því.

Þá sést að risaveldin tvö eru hættulegastir óvina í herbúðum auðvaldsins á heimsmælikvarða. Allt sem verður til að veikja þá og gera þeim erfiðara að skipta heiminum upp, eykur sigurvonir alþýðu heimsins og flýtir fyrir sigri. Mestum árangri ná núna þjóðir og alþýða þriðja heimsins, en andóf annars heims ríkja hefur einnig áhrif. Það andóf eflist aðeins með baráttu verkalýðs og vinnandi alþýðu í þeim löndum fyrir sósíalískri byltingu og verndun sjálfræðis þjóða sinna. Þar eru því komin verkefni okkar í íslenskri stéttabaráttu, en auk þeirra styrkjum við og styðjum baráttu þriðja heimsins og eflum tengsl við byltingarhreyfingar annars heimsins. Við lítum einnig jákvæðum augum á gagnkvæma samvinnu annars og þriðja heimsins og sérhverja aðgerð annars heims ríkja sem veikja risaveldin.

Þannig er kenningin um þrjá heima stjórnlist alþýðu heimsins á tímum risaveldanna – stjórnlist sem er beitt hlutstætt miðað við sérstæður hvers lands.



**Nýju keisararnir í Kreml klæðast yfirhöfnum sósíalisma** en eru ekkert annað en fasistar og örgustu heimsvaldaseggir. Það sýnir framferði þeirra um allan heim.

ÍSLAND

Lítum nú á ástandið á Íslandi í dag. Þó að Ísland sé ekki stórt þá hefur auðvaldsskipulagið hér fyrir löngu náð stigi einokunar og heimsvaldastefnu. Borgarar og öreigar eru hér í ósættanlegri andstæðu hvorir við aðra og stéttaátök harðna sífellt. Framsækin öfl hérlendis hafa ekki eingöngu borgara eigin lands að berjast við. Erlend ásælni í íslenskt markaðssvæði, í auðlindir okkar – eins og t.d. landhelgina –,eða í ódýra orku í miklu magni fer vaxandi af hendi ýmissa auðhringa, þótt missterkir séu og misstórir.

Staða Íslands hefur leitt til þess að Bandaríkin hafa sett hér upp herstöð sjálfum sér til varnar. Baráttu gegn allri þessari ásælni verður alþýða landsins að heyja eigi kjör hennar ekki að versna. Einstaka sinnum neyðist borgarastéttin til að taka upp

Framhald á bls. 3

# Listi yfir lesefni

Lista þessum er fyrst skipt í tvo meginflokka eftir umræðuefnum á sumarbúðunum. Síðan er hvorum meginflokki skipt í tvennt, eftir mikilvægi efnisins og möguleikum á að verða sér úti um það. Allt það efni sem talið er í fyrra hópi hvors flokks (þ.e. mikilvægasta efnið) fæst í Október bókabúðunum, og ættu allir þátttakendur að ná sér í þetta efni sem fyrst til að geta gripið niður í efninu fram að sumarbúðunum. Lesefnið á að lesa fyrir sumarbúðirnar, ekki á þeim, og það er ekki ráðlegt að taka allt þetta efni með sér. Tími til lesturs þar verður lítill, og þá er til lítils að vera að burðast með þunga doðranta með sér.

I. Um uppbyggingu kommúnistaflokks verkalýðsins.

A. Aðallesefni :

1. F.Engels: Uppkast að bréfi til Gersons Trier Úrvalsrit II, bls. 361-363.
2. J.Stalín: Grundvöllur lenínismans, bls.25-44 102-117 og 118-120.
3. Maó Tsetung: Vinnubrögð flokksnefnda Úrvalsrit III, bls. 254-260.
4. Maó Tsetung: Sameinum allan flokkinn Úrvalsrit I, bls.265-272.
5. Maó Tsetung: Um leiðréttingu rangra hugmynda Úrvalsrit III: bls.54-67.
6. Baráttuleið alþýðunnar, 2.útg.7.kafli, bls.107-124.
7. Ályktun 3.landsþings um flokkinn, Verkalýðsblaðið 3.tbl.4.árg.

B. Aukalesefni :

1. Maó Tsetung : Sameinum alla þjóðina... Úrvalsrit III, bls. 194.
2. Maó Tsetung : Stækkum Kommúnistaflokkinn... Úrvalsrit III, bls.194-195.
3. Maó Tsetung : Flokksagi , Úrvalsrit III bls.200
4. Maó Tsetung : Innanflokkslýðræði Úrvalsrit III, bls. 201-202.
5. Maó Tsetung : Nokkur vandamál... Úrvalsrit III, bls 224-230
6. J.Stalín : UM FLOKKINN , bæklingur útg.af KSML 1973, bls 26-59.
7. Fram til stofnunnar Kommúnistaflokks Íslands, 2.landsþing EIK(m-l), bls 8-11
8. Að byggja kommúnistaflokk, Rauðliðinn 1.tbl. 2.árg. bls 14-16.
9. Um kommúnistaflokkinn í bæklingnum Gerum verkalýðshreyfinguna að baráttuhreyfingu. bls.54-55

Auk þess eru ýmsar góðar greinar um málið í Verkalýðsblaðinu síðasta árið.

III. Um þriðja heiminn og alþjóðabaráttuna.

A. Aðallesefni :

1. Karl Marx: Ávarp og bráðabirgðalög Alþjóðasambans verkamanna, Úrvalsrit II, bls.208-220
2. Maó Tsetung: Byltingaröfl veraldar... Úrvalsrit III, bls 249-253.
3. Maó Tsetung: Þjóðir veraldar... Úrvalsrit III , bls.289-291
4. V.Lenín : Heimsvaldastefnan
5. J.T.Murphy:Stalín og utanríkisstefna Ráðstjórnarríkjanna. Stalín 16.kafli bls.281-304
6. J.T.Murphy: Stalín og heimsbyltingin Stalín 15.kafli bls. 263-280
7. Baráttuleið alþýðunnar, 2.útg.6.kafli bls 74-106.
8. Norðurlöndin meðal risaveldanna. Ályktun 1.sameiginlega þings norrænna marx-lenínista, bls. 4-24

B. Aukalesefni :

1. Karl Marx: Fyrsta ávarp Sambandsráðsins.., og Annað ávarp Sambandsráðsins vegna stríðsins á milli Frakka og Þjóðverja.



Úrvalsrit II, bls 235-247.
2. J.Stalín: Alþjóðleg einkenni Októberbyltingarinnar, birt í ísl. þýðingu í Rauða Fánanum 1.-2.tbl.1973, bls. 26-31.
3. V.I.Lenín: Heimsvaldastefnan og klofningur sósíalismans, bæklingur útg.af Lenín-Stalín forlaginu 1974, bls 23-37.
4. Maó Tsetung: Föðurlandsást og alþjóðahyggja Úrvalsrit III, bls.190-191.
5. Sverrir Kristjánsson: formáli að Kommúnistaávarpinu útg.1949, kafli 9, bls 78-82.
6. Alþýða 3.heimsins- mikilvægasta hreyfiafl heimsbyltingarinnar. Rauðliðinn 2.tbl. 2.árg. bls 57-58.
7. Hvað hefur gerst í Sovétríkjunum? 1.2.og3. hluti, Rauðliðinn 2.tbl.3.árg. 3.tbl.3.árg og 1.tbl.4.árg.
8. Fram til stofnunnar Kommúnistaflokks Íslands, 2.landsþing EIK(m-l) , bls.12-18.

Auk þess eru fjölmargar ágætar greinar um þessi mál í Verkalýðsblaðinu síðasta árið.

Félagar, slíkur listi getur aldrei orðið tæmandi. Vafalaust vitið þið um margt sem hefði átt að vera á listanum frekar en eitthvað sem þar er. Virðið okkur það til vorkunnar, en látið samt í ykkur heyra með gagnrýni ykkar og ábendingar. Uppástungur um meira af lesefni birtum við í Verkalýðsblaðinu fram að sumarbúðum. Látið því endilega heyra í ykkur.